


VI. Winnipeg, Man. Nr. 11

SÉRA VALDIMAR BRIEM:

# AÐ AFKRISTNA LANDIÐ.

"Kyrkjublaðið" 10. Sept. 1896.

---

Svar:

Séra Valdimar hefir, sem honum er lagið, skrifað mjög hóflega grein í "Kirkjublaðið" móti stefnu þeirri, sem hin unga kynslóð landa vorra heima er að hefja á móti hinni gömlu gildandi lútersku trú. Honum líst ekki á hana þessa stefnu, þar eð hann sér, að hún er að grafa grundvöllinn undan kyrkjunni, hún er að afkristna landið og af því hyggur séra V. að muni leiða óöld og eymd og skelfingu. En á hverju hann byggir það, að afleiðingarnar muni þessar verða, er ekki gott að sjá af greininni.

Ég ætla fyrst að snúa mér að því, er presturinn segir að stefna þessi sé sú, að grafa grundvöllinn undan kyrkjunni. Er þá grundvöllur sá, sem kyrkjan stendur á, svo ótraustur, að byggingunni liggi við hruni? Er hann þá virkilega ekki styrkari en svo? En hvernig stendur þá á því, að kyrkjan á sér ekki betri grundvöll? Má ekki skoða hyrningarsteinana hvernig þeir liggja, ef hægt væri að laga þá, ef að þeir stæðu á sandi, sem frosinn hefði verið, en nú þegar sumarið kemur með hitanum og blíðunni, losnaði í sundur og skolaðist burtu og svo yltu steinarnir undan og byggingin hryndi öll um koll. Ég hélt að það sæmdi ekki öðrum eins manni og séra Valdimar, að vera að koma með þessar sjónhverfingar fyrir alþýðu, að látast vera að

byggja á grunni þeim, sem hann í öðru veifinu játar að sé ónýtur. Því að vissulega játar hann það að grundvöllurinn, sem kyrkjan stendur á, sé ónýtur, ef að hann heldur að megi grafa hann undan kyrkjunni.

Svo fer hann að kenna það þekkingarskorti *"á hinum guðlegu fræðum"* og "sögulegri rás viðburðanna" og "alt of sterkri trú á orð ýmsra *útlendra* rithöfunda", að menn skuli halda fram stefnu þeirri, En þetta er hálfskrítið, því að þeir einmitt verða styrkastir og standa fastast með þessari stefnu, sem fara að lesa þessi guðlegu fræði ofan í kjölinn. Fræði kyrkjunnar þola ekki að það séu lesin ofan í kjölinn, þau þola ekki vísindalega meðferð. Það kveður svo ramt að því, að á hinum íslenzka prestaskóla er engin samanburðarguðfræði til. Séra Valdimar talar um að trúa Kristi og postulunum. En hvar getur séra Valdimar sýnt einn einasta staf, sem Kristur hafi skrifað? Hvar getur hann sýnt eina einustu setningu, sem Kristur hafi sagt lærisveinum sínum eður postulum að skrifa eftir sig. Allir þeir, sem nokkuð hafa farið út í sakir þessar vita vel, að guðspjöllin er samtýningur eftir sögusögnum ótal manna og samtýningur þessi var ekki í letur færður fyr en mannsaldri eftir Krist. Hvað þá sönnun snertir, að kristindómurinn sé búinn að standa nær 2000 ár, þá er Buddhatrú eldri, Brahmatrú eldri, Zóróasterstrú eldri, Confuciusartrú eldri. En svo fer séra Valdimar að fikra við aðalkjarnann í öllu spursmálinu, er hann fer að vandræðast út af því, að þessir vantrúarmenn, sem vilji afkristna landið, vilji ekki hafa fyrir því að lesa ritninguna ofan í kjölinn "með einlægri löngum eftir að finna sannleikann". Að finna sannleikan ætti að vera markið og miðið fyrir hverjum einum, það ætti eins að vera markið og miðið prestanna eins og þeirra, sem hann segir að vilji afkristna landið.

Ef að grunnur kyrkjunnar er svo veikur, að ekki má við hann koma, því skyldu menn þá ekki gæta að því? Ef að hann er svo traustur að ekkert getur grandað honum, þá gerir lítið til, þó að þessir bjálfar slái höfði og hornum við hann,þá eiga líka klerkarnir létt með að verja hann. Að finna sannleikann ætti að vera augnamiðið. En þegar einn kemur og segir að það sé lýgi, sem annar segir að sé sannleikur, hvað er þá annað fyrir, en að rannsaka hvor réttara hafi fyrir sér. Það er þessi rannsókn, sem kyrkja og klerkar snýr sig út úr á allar lundir. Kyrkjan veit að hún þolir hana ekki og þess vegna má hún ekki nefna hana á nafn. Ég skal taka til dæmis rannsóknina um ættartölu Krists, rannsóknina um syndaflóðið, rannsóknina um skipanir guðs í gamla testamentinu, þegar guð skipar og segir Gyðingum t. d.: "Far þú og drep þú svo

mann sem konu, svo barn sem brjóstmylking, svo uxa sem sauð svo úlfalda sem asna;" rannsóknina um getnað Krists, rannsóknina um helvítiskvalir allra þeirra, sem ekki eru skírðir eða endurfæddir; rannsóknina um bókstaflegan innblástur. Þetta þolir ekki kyrkjan. En hví eru þá aðrir eins vitmenn og séra Valdimar, aðrir eins gæða drengir, að vera að halda í þetta? Ef að það eru ósannindi, bull og hégiljur, sem þeir fara með, verður það þá nokkuð sannara fyrir það, að þeir haldi því fram? Lygi verður æfinlega lygi og lygi verður æfinlega til bölvunar, eins landi og lýð í heild sinni eins og hverjum einstökum manni. Þegar því ráðist er á grundvöll kyrkjunnar, þá er hið eina ærlega ráð, hið eina drengilega ráð, sem prestar kyrkjunnar geta upptekið, að verja hana með rökum. Þeir verða að gefa sig út í rannsókn ef að þeir eiga að geta heitið ærlegir menn. Þeir mega ekki hugsa það að þeim takist að blekkja menn til lengdar þegar menn eru farnir að hugsa. Þeir fara ver og ver á því sjálfir, þeir fara ver og ver með þjóð sína. Ef að þeir eyðileggja hjá henni ástina til sannleikans, þó hafa þeir illa gjört og illa er sú þjóð farin, sem á slíka menn fyrir "bestu menn sína."

Það þýðir ekkert að hrópa hátt um það, að nú sé verið að afkristna landið. Miklu heldur ætti hver einasti klerkur að koma fram og bjóðast til að rannsaka, hvað satt væri í trúmálum, rétt eins og hverjum öðrum málum. Það er eitthvað skrítið ef ekki má tala um sannleika, leita að sannleika, grenslast eftir sannleika í þeim málum sem öðrum.

---

## Á dauður maður nokkurn rétt á sér?

Það var eins og menn vissu ekkert hvaðan á sig stóð veðrið þegar ég fór að rita um það, að það hefði óhæfa verið að draga mann dauðan inn í kyrkju þá, sem hann tilheyrði ekki í lifanda lífi. Menn litu upp stórum augum og vissu ekkert, hvað þetta átti að þýða; menn voru orðnir þessu og þvílíku svo vanir, þeim fannst þetta vera svo rétt og svo tilhlýðilegt. En þetta er óhreinleiki, það er ein hliðin á óhreinleika, þeim, sem hefir loðað svo fast við landa vora síðan á kúgunardögunum, þegar þeir vöndust við að standa berhöfðaðir og bukkandi frammi fyrir búðarlokunum heima. Það er eins og menn finni ekki til þess, að á þeim liggi nokkur siðferðisleg kvöt, að koma fram hreinir og beinir, þegar um skoðanir er að

ræða. Þeim finnst það vera alveg hið sama, þó að þeir standi í flokkum þeim, sem þeir eiga ekki heima í, alveg sama, þó að þeir liggi á sannfæring sinni og látist hafa alt aðrar skoðanir, en þeir í rauninni hafa. Það lítur meira að segja svo út, sem þeim þyki það tilhlýðilegt, sómasamlegt og dýrðlegt, að hræsna þannig og koma fram alt aðrir menn en þeir eru. Menn eru orðnir því svo vanir að heiman, að klerkar þar flytji alt aðrar kenningar, en þeir hafa og halda sjálfir. Þeir geri það til þess að halda embættinu, garmarnir, þeim sé það ekki láandi. Og svo hefir þetta étið sig svo inn í þjóðina, að í þessu tilliti er sáralítið um drengskap og einurð að tala, nema hjá einstöku mönnum. Það er eins og menn sjái það ekki og vilji ekki sjá það, að lygin og hræsnin er svívirðileg og niðurlægjandi fyrir manninn, í hvaða mynd, sem hún kemur fyrir. Það er jafn svívirðilegt fyrir menn að ljúga því, hvaða skoðanir menn hafi, eins og þegar þeir eru að ljúga einhverju sér til ábata eða hagnaðar, Það er eins svívirðilegt að ljúga því t. d., að þú trúir á guðdóm Krists eða eilíft vítisbál, ef þú trúir því ekki, eins og þegar þú t. d. lýgur skömmum eða óhróðri upp á einhvern, sem þú þekkir, og það er jafnsvívirðilegt, að ljúga því, að menn tilheyri kyrkju þeirri, sem menn í raun og veru ekki tilheyra, eins og hvað annað sem ósatt er.

Já, en þetta hefir nú verið gjört svo oft, kunna menn að segja, að jarða menn við kyrkju, þó að þeir kanske trýðu ekki öllum þeim kenningum, sem kyrkjufélag það flytur; "má ekki tala eitthvað kristilegt yfir manninum',; segir hann S. Anderson í grein sinni, "er það nokkur svívirðing að greftra manninn að kristinna manna sið?" En hvað er það þetta kristilega, sem yfir mönnunum er verið að tala þegar þeir eru greftraðir? Lúþerskur prestur getur tæplega og mun aldrei gjöra annað, en að byggja ræðu sína yfir hinum látna á trúarsannindum þeim, sem hann fylgir og er skyldugur að fylgja. Hann byggir vonina um góð afdrif hins látna á friðþægingardauða Krists, hann er nauðbeygður til þess, hann getur ekki annað og meira, hann hlýtur að byggja hugmyndir sínar einnig á því, að hinn látni hafi verið trúaður á atriði sáluhjálparinnar, trúaður á guðdóm Krists, á endurlausina fyrir blóð hans, á upprisu hans, trúaður á víti, á bókstaf, já meira að segja sannur kyrkjumaður, því að: sine ecclesia nulla salus (fyrir utan kyrkjuna er engin sáluhjálparvon. Þetta er svo viðtekið um alla kyrkjun, að engum kemur til hugar að mæla á móti því. En fari nú klerkur að synda í kringum þetta og óska hinum látna góðrar og gleðilegrar heimkomu í öðru lífi, vitandi að hinn látni var enginn kyrkjumaður, vitandi að hann trúði ekki þessum sannindum, sem að kyrkjan hefir á-

kveðið, að ein skuli geta veitt manni sáluhjálpina. Þá hefir klerkur sá tungur tvær og talar sitt með hvorri. Hann er þá blátt áfram að lesa lygi yfir hinum látna. Prestur hlýtur að ganga út frá því, að hinn látni hafi trúað, að minnsta kosti rétt fyrir andlátið, ef að hann á ekki að vísa hinum látna norður og niður.

En er það fyrirkomulag nú rétt, er það sómasamlegt, er það heiðarlegt, að stuðla til þess, að prestur tali lygar við þau verk, sem menn ýmist kalla heilög eða því nær? Er það ekki miklu fremur að setja skömmina og svívirðinguna í hásætið? Mér finnst þau vera krýnd þar systkynin lygi og óbreinleiki. En sjáið þér ekki, vinir mínir, að þetta er stórkostlega siðspillandi, gjörsamlega eyðileggjandi alla sanna siðferðistilfinningu? Það er sannarlegt átumein þeirrar þjóðar, þar sem þetta viðgengst hjá.

En nú skal ég taka til annað dæmi. Presti hefir verið sagt, að hinn látni hafi iðrast og snúist og kropið að krossinum. Þá getur presturinn náttúrlega talað sem kenningar hans bjóða og flutt hinn látna á vængjum endurlausnar eða hins blóðuga krossdauða í sælunnar bústaði. En enginn, sem ég hefi heyrt um það tala, ekki einu sinni herra Sigfús Anderson, hefir haldið því fram, hvað þetta tilfelli snertir, lát herra Finneys, að hinn látni hafi snúist fyrir andlátið. Enda mundu fáir kunningjar hans trúa því, þó að nú ætti að fara að berja það fram.

En það er þetta *kristilega*, sem sumum finst endilega þurfa að tala yfir mönnum. En ef að hinir rétttrúuðu bræður vorir eru engin flón, þá vita þeir vel, að samkvæmt eigin skoðunum þeirra, þá gagnar þetta kristilega tal ekki vitund öðrum en þeim, sem trúaðir hafa verið. Ef að ætti að fara taka heiðinn Kínverja látinn og lesa yfir honum, að hann yrði frelsaður fyrir það, að hann trúði á Krist — maðurinn sem aldrei hafði heyrt Krist nefndan og engu trúað um hann, — hvað væri það annað en hneyksli? Ég skal taka annað dæmi, sem kannske verður þeim andstæðingum mínum enn þá skýrara. Setjum svo, að Ingersoll dæi, þessi hinn tröllaukni mótstöðumaður hinnar rétttrúuðu kyrkju, og nú skyldu klerkar koma að hópum saman og fara að þylja um það, hvílíkur blessaður engill að Ingersoll hefði verið, hann hefði dáið í trúnni á Krist, hann hefði faðmað krossinn helga, hann hefði iðrast og snúist. En allir vita að Ingersoll trúir engu af þessu. Væri slíkt nú ekki hneyksli og óhæfa ein að fara að ljúga þannig upp á dauðan manninn, því að sannlega er það álygi á dauðan mann, ef sagt er, að hann hafi haft alt aðrar skoðanir, en hann hafði. Og það er líka annað, það er

bull eitt og endileysa; það mætti alt að einu taka einhverja skepnu og lesa yfir henni dauðri þetta "kristilega" og segja að hún verði nú sáluhólpin fyrir að hafa trúað hinu eður þessu.

En það er eins og landinn skilji þetta ekki. Hann ætlar það sjálfsagt, að láta lesa þetta "kristilega" yfir öllum dauðum mönnum. En í löndum sem eru eins kristin eins og Frakkland t. d., er það mjög títt að menn eru jarðaðir og jarðsungnir án þess að nokkur prestur komi þar nærri. Þess vegna eru það gersakir sem oss Unitörum hafa gjörðar verið, að segja að vér höfum endilega viljað ná í hinn látna. Það hefir aldrei verið meiningin. Vér skrifuðum þessa grein frá almennu sjónarmiði réttlætisins. Það var ekki tilhlýðilegt, að fara að tala yfir Finney sál. af presti þess flokks, sem hann ekki tilheyrði og síst af öllu af flokki þeim, sem bindur skilyrði sáluhjálparinnar við trúna, og það er ótilhlýðilegt, það sér hver maður, að fara að þylja yfir mönnum ræður, sem bygðar eru á syndafalli, vítistrú og endurlausnarkenningum; þegar mennirnir hafa ekki trúað neinu þessu. Þjóðin okkar væri siðferðislega stærri og meiri ef að hún gætti hreinskilni og drengskapar í þessu sem öðru.

Svo er líka virðingin, sem menn æfinlega eiga að bera fyrir dánum. Menn mega ekki gjöra þá að ræflum, þeir geta ekki borið hönd fyrir höfuð sér, þeir geta ekki mótmælt, þó að eitthvað sé borið á þá, eða eitthvað eigi að gjöra við þá. Og ef að nokkur drengskapartilfinning býr í mönnum, þá verða þeir að gæta þess vandlega að gjöra hinum látna ekki rangt til. Þetta hafa menn fundið fyrir svo fjarskalöngu síðan, að fyrir tíma kristinnar trúar var alþekt hið latneska máltæki: de mortuis nil nisi bene (seg að eins gott eitt um þá sem dánir eru). Að meiða æru eða mannorð dáins manns er því ákaflega viðurhluta mikið. En er ekki mannorð hans meitt með því, að ætla honum aðrar skoðanir en hann hafði og láta hann svo fara að afsverja skoðanir lífs síns dauðan? Vér viljum ekki tala meira um það, því oss þykir það svo ljótt.

Hér í þessu tilfelli getur því ekki verið spurning um annað en það, hvort hinn látni vinur vor hafi tilheyrt hinni lútersku kyrkju eða ekki. En andstæðingur vor neitar því í grein sinni, því að hann segist ekki vita til að hann hafi skrifað sig í nokkurn söfnuð. Hann gat því ómögulega tilheyrt hinni lúþesku kyrkju og hún hafði því ekkert yfir honum að lesa. Því að það vita þeir, sem honum voru kunnugir, að í Nýja Íslandi sagði hann sig úr kyrkjufélagi Íslendinga, sem þar var þá.

En umtal þetta og greinir vildum vér óska að yrði til þess, að menn færu að gæta betur drengskapar og hreinskilni í meðferð sinni með dána menn, en hingað til hefir átt sér stað.

# ZÓROASTERS-TRÚ.

Eftir Bundehesh bókunum.

Fyrirlestur fluttur í Winnipeg 1893.

Eftir séra M. J. SKAPTASON.

Ég ætla að bregða mér með yður, kæru vinir, dálítinn spöl, vér verðum enga stund að komast þangað, það er að segja í andanum, þó löng væri leiðin, ef vér ættum fótgangandi að fara, svo er það líka aftur í tímann um fleiri þúsundir ára. Ég ætla að bregða mér með yður þangað, sem forðum var vagga forfeðra vorra, hinna norrænu víkinga, sem bygðu norðurlönd, fundu Ísland og bygðu það. Það er austur í Asíu, ekki þar sem Nói gamli var og synir hans, því vér erum þeim ekki skyldir, enginn blóðdropi þeirra rennur í æðum hinna norrænu þjóða, austar megum vér fara og lengra norður, einhversstaðar norður af Samarkand á sléttunum þar, um suðurhluta Síberíu og suðausturhluta Rússlands hefir það líklega verið, sem þjóðin bjó fyrir ómunatíð, að líkindum áður en heimur var skapaður eftir biblíutali. Hún hefir verið voldug og mikil, það getur maður séð á stórþjóðum þeim, sem frá henni eru komnar þó að engin séu ritin eða bækurnar, er hún hafi látið oss eftir móðurþjóðin, þá hafa þó tungumál dætra hennar frætt oss heilmikið um hana, hvernig högum hennar hafi verið háttað og hvernig henni hafi liðið; en dætur hennar, þjóðirnar sem af henni eru komnar, eru þessar: Indur eða Hindúar öðru nafni, Persar, Grikkir, Latínar gömlu, Celtar, Germönsku eða Tentonsku þjóðirnar, og Slavar. Upprunalega bjuggu Aryanar (ekki Aríar, sem er nafn á kyrkjuflokki kristnum) í landi einu, Aryana Vaejo. Segir svo í biblíu Parsa Vendidad að Ahura-Mazda (eða Ormuzd) hafi skapað það og væri þar unaðslegt að vera, en svo skapaði Angra-Mainyus (Ahriman) höggorm einn mikinn og Daevas (djöflarnir) sköpuðu veturinn. Frá þessu landi, Aryana-Vaejo, streymdu flokkarnir, suður á Indland og hrundu frá sér þjóðum þeim, er þar bjuggu, og mynduðu Brahmatrúna, er nú fylgja einar 150,000,000 manna og hefir það eflaust verið mjög snemma, löngu áður en vér þekkjum nokkrar sögur af. Annar flokkurinn hljóp suður á Iran austanvert, myndaði þar þjóðflokk og trú, Zóroasters-trúna; snemma hefir það og hlotið að vera, því á dögum Cyrusar var sú trú útbreidd um hið persneska ríki og Eufratsdalinn. Þriðji Flokkurinn voru Grikkir. Afar snemma, löngu fyrir 1000 fyrir Krist, hafa þeir komið einhversstaðar norðan

að Grkklandi og þegar Trója var unnin, um 1000 f. Kristá voru þeir búnir að stofna ríki mörg á Grikklandi, mynda tungumál og trúarbrögð, er sverja sig í ættina til austurlandatrúarbragðanna, en til þess að mynda tungumál hefir gengið afarlangur tími; þá voru Latínar fyrir á Ítalíu er Encas kom þar úr Trójubardaga og eru þeir hinn fjórði flokkur. Þá hefir það og verið mjög snemma er Celtar brutust vestur um norðurálfu og vestur á Bretlandseyjar og hrundu frá sér hinum fyrri íbúum landa þeirra er þeir fóru yfir. Einnig mynd uðust þar trúbrögð og tungumál sem leyfar eru af á Skotlandi og Írdl., Galeliska. Á eftir þeim kemur norræni flokkurinn og er hann hinn sjötti og festist hann í kringum Eystrasalt og erum vér frá honum komnir, en ekki af neinum semitiskum eða syrochaldeiskum uppruna eins og Nói og Gyðingar. Vér höfum aldrei átt neitt skylt við þá. Seinna komu Slavar, sem nú byggja Pólen og Rússland og löndin þar um.

Ein af þessum frændþjóðum vorum voru hinir gömlu Parsar. Trú sú er myndaðist meðal þeirra er kend við Zóróaster og kölluð Zóróaster-trú. Hvenar hann hafi uppi verið, vita menn ekki með vissu, en þegar hin elsta bóka biblíu þeirra var rituð, var Bactría sjálfstætt ríki en Assyrar unnu það um 1200 árum fyrir Krist og getur Zóróaster ekki hafa lifað seinna en á þeim tíma, því hann átti að hafa verið kennari Vistacpa konungs. Aristóteles, grískur spekingur á dögum Alexanders mikla, rúmum 300 árum fyrir Krist segir, að Zóróaster hafi verið uppi 6000 árum fyrir dauða Platós og Hermippos að hann hafi verið uppi 5000 árum fyrir Trójubardaga, eða löngu áður en heimur var skapaður eftir biblíu tali. Zóróaster þessi er kallaður höfundur trúar þeirrar er við hann er kend; hefir hann verið framúrskarandi maður, spekingur að viti og hinn besti maður einn af þeim mönnum, sem með kenningum sínum hefir haft afarmikil áhrif á mannkynið, vanalega er hann kallaður Zóróaster en í Yacnabókunum er hann kallaður Zarathustra. Honum er eignað mikið af biblíu Parsa, einkum hinar elstu bækur, en svo hefir safninu verið haldið áfram af eftirkomendunum og bók bætt við bók eins og átt hefir sér stað um allar biblíur heimsins. Biblía Parsa er kölluð Zend-Avesta, en allar eru bækur þessar æfagamlar og meginhluti þeirra víst eldri en hinar elstu bækur ritningar vorrar.

Ég ætla nú að lofa yður að heyra sköpunarsögu þeirra Parsanna eins og hún er fram sett í Bundehesh og er hún á þessa leið:

Í upphafi sköp hin eilífa eina vera, Zerana Akerana, tvær aðrar guðdómlegar verur. Hin fyrri, Ahura-Mazda, konungur, var hon-

um trúr og dyggur, en hin síðari var Ahriman eður Angra Mainyus, konungur myrkursins, og urðu þeir brátt ósáttir.

Hin óendanlega, ótakmarkaða vera, Zerana-Akerana, réði það nú af að eyða því hinu illa er Ahriman hafði stofnað til og lét því Ormazd skapa hinn sýnilega heim, og ákvað heiminum aldur, að hann skyldi verða 1200 ára gamall. Skifti hann tíma þessum í 4 tímabil, er hvert skyldi vara í 3000 ár. Á hinu fyrsta tímabili, skyldi Ormazd ríkja einn, á hinu öðru tímabili átti Ahriman að taka til starfa en vera þó Ormazd undirgefinn, á þriðja tímabilinu áttu þeir báðir að hafa völdin, og á fjórða tímabilinu átti Ahriman að ráða mestu.

Ormazd hóf nú sköpunina með því, að hann skóp Fereuers eða Fravashi. Hvað eina, sem skapað hefir verið, og hvað eina sem á að skapast, á sitt Fravashi og er það orsök og grundvöllur tilveru þess. Jafnvel Ormazd sjálfur hefir sitt Fravashi í tilliti til frumskaparans Zerana-Akerane. Fyrir því hlaut andlegur og ósýnilegur heimur að ganga á undan hinum sýnilega, líkamlega heimi, sem frummynd hans.

Þegar Ormazd skapaði hinn sýnilega heim, þá skóp hann fyrst hvelfingu himinsins og jörðina, sem himinhvolfið hvílist á. Á jörðinni skóp hann hið háa Albordj-fjall, sem gnæfði upp yfir himinhvolfið uns það náði frumljósinu og tók þá Ormazd sér þar bústað. Frá hæsta tindi þess liggur brúin Chinevat upp í himinhvelfinguna og til Gorodman, sem er opið á himinhvelfingunni uppi yfir Albordj. Gorodman er bústaður Fravashanna og hinna sælu, og brúin þangað liggur yfir hyldýkið Duzakk, ginnungagapið, þar sem Ahriman býr undir jörðu niðri.

Ormazd vissi það, að þegar hið fyrsta tímabil, 3000 ár, væri útrunnið, þá mundi orustan við Ahriman byrja; hann vopnaðist því og skapaði sér til hjálpar allan hinn skínandi himinsins her — sólina, tunglið og stjörnurnar — voru ljósverur þessar máttugar mjög og hlýddu allar Ormazd. Fyrst skóp hann hinn trausta hlaupara er aldrei deyr, sólina, og gjörði hana að konungi yfir hinum sýnilega heimi. Frá Albordj leggur hann upp í ferð sína, rennur hringinn í kringum jörðina efst uppi í himinhvolfinu og snýr aftur að kveldi. Síðan skapaði Ormazd tunglið með þess eigin ljósi. Það leggur og upp frá Albordj, rennur utan um jörðina um hin lægri himinhvolf og snýr svo aftur. Síðan skapaði hann hinar fimm smærri jarðstjörnur og allan herskara hinna föstu stjarna í hinum lægstu hvolfum himnanna. Rúminu milli jarðarinnar og himinhvelfingarinnar er því skift í þrjú hvolf, sólarhvolfið, tunglhvolfið og

stjörnuhvolfið. Þessir herskarar stjarnanna voru óbreyttir liðsmenn í ófriðnum við Ahriman og var þeim skift í fjórar sveitir, er hver hafði sinn höfðingja. Tólf flokkum var skipað í hin tólf merki dýrahringsins, var þeim skift í fjórar deildir, í austri, vestri, norðri og suðri. Jarðstjarnan Tistrya, Júpíter, er foringi hinna austlægu og nefnist stjörnu prinsinn. Sitavisa, eða Saturn, er foringi hinna vestlægu, Vanant, eða Mercur, hinna suðlægu og Hapto-iringa, eða Mars, hinna norðlægu. Í miðju himnanna er hin mikla stjarna Mesch eða Meschgah (Venus). Hún er foringi þeirra allra móti Ahriman.

Hundastjarnan Sirius eða Sura, er annar vörður himins; er honum fest við bryggjuna Chinevat og geymir hann afgrynnisins að bústöðum Ahrimans.

Þegar Ormazd hafði búist við á himni, var nú liðið hið fyrsta tímabil af hinum fjórum, og dýpst neðan úr myrkraríki sínu sá Ahriman hvað hann hafði gjört. Hann fór því að skapa líka á móti þessari ljóss-sköpun. Skóp hann mikinn og óttalegan myrkvaheim, jafnan að tölu, og jafnan að mætti ljósverum Ormazd En með því að Ormazd þekkti eymd þá alla, er hlotnast mundi af Ahriman, en vissi hins vegar að Ahriman mundi ósigur bíða, þá býður hann Ahriman frið; en hann þáði hann ekki og kaus heldur ófrið. En er til ófriðar kom, varð Ahriman blindur við að líta hátign Ormazd og felmtri sló yfir hann er hann sá hina hreinu svipi (Fravashi) hinna heilögu manna. Ormazd sigraði hann með orði sínu og hvarf hann þá niður í afgrynni myrkranna, og lá hann þar fjörtaður um öll hin 3000 ár hins annars tímabils.

Ormazd lauk nú sköpun sinni á jörðunni. Var Sapandomad varðengill jarðarinnar, og jörðin Hethra var móðir alls hins lifanda. Khordad var drottinn tímanna, ára, mánaða og daga, einnig er hann verndari vatna þeirra, er renna frá lindinni Anduisur í fjallinu Albordj. Jarðstjarnan Tistrya hafði það starf, að lyfta upp vatninu í gufu, safna því saman í skýjum og láta það falla niður til jarðar í regndropum og skyldi stjarnan Sitavisa (Saturn) hjálpa Tistrya til. Voru skýjavaldar þessir í miklum metum hafðir. Amerdad var aðalguð jarðargróðans, en hinn voldugi Mithra var guð frjófgunar og framleiðslu og getnaðar. Starf hans var í því fólgið, að leiða Frasvashi (svipi eða sálir) í líkama þá, er þeir áttu að byggja.

Í ljósheimi Ormazd átti hvað eina á jörðu sinn verndarguð. Þessum varðenglum var skift í flokka og deildir, er hver hafði einn foringja og foringinn aðstoðarmenn. Hinir sjö Amshaspands voru hinir helstu verndarguðir og var Ormazd þeirra fremstur; hinir sex

voru: Bahman, konungur himins; Arðibeheschl, konungur eldsins; Schariver, konungur málma; Sapandomad, drotning jarðar; Amerdad, konungur jarðargróða; og Khordad, konungur vatnsins.

Þannig lauk hinu öðru tímabili. Á því hafði Ormazd skapað hið mikla frumnaut, er átti að vera frummynd allra dýra jarðar og í því var niðurlagt fræ allra lifandi skepna.

Á meðan Ormazd var að ljúka ljóssköpun sinni, var Ahriman ekki aðgjörðalaus í afgrynninu myrkraríki sínu; starfaði Ahriman að því, að skapa tilsvarandi vonda veru móti hverri góðri veru er Ormazd skóp. Þessir andar næturinnar stóðu í fylkingum með hinum sjö foringjum sínum, Daevas, eða djöflahöfðingjum, er svöruðu til hinna sjö Amshaspands (ljósfursta).

En er alt var búið undir hið mikla stríð, var liðið að endir hins annars tímabils. Einn af Daevunum eða undirheims-furstunum, herti þá á Ahriman að byrja slaginn. En er hann taldi herskara sína, fann hann ekkert í þeim, er hann gæti skipað móti sálum Fravashi, góðra manna, og féllst honum þá hugur. Loks var þetta 2. tímabil á enda, fyltist þá Ahriman miklum móði því hann sá að sér var nú ekki lengur til setu boðið, hendist hann nú upp og hyggur að láta til skarar skríða. Sveitir hans fylgdu honum eftir í fyrstu, en þó komst hann að eins einn upp til himna; herflokkar hans sátu eftir. Fór þá hrollur um hann, svo hann hentist af himni ofan á jörðu, brá sér í höggormslíki og smaug inn að miðbiki jarðar, og inn í hvað eina á jörðu lifandi og líflaust. Hann fór í frumnautið, inn í eldinn sjálfan, hina sýnilegu ímynd ljósguðsins, og spilti honum með reyk og gufu. Því næst réðist hann á himnana, og hafði þegar yfirunnið nokkurn hluta stjarnanna, er hann vafði í reyk og þoku, en þá réðist Ormazd á hann og fylgdu honum sálir helgra manna. Níutíu daga og níutíu nætur stóð slagurinn; var þá Ahriman algjörlega yfirunninn, og hrakinn niður í afgrynnið Duzakh, ásamt herskörum sínum.

Þar var hann þó ekki lengi því hann gróf göng í gegnum miðja jörðina fyrir sig og félaga sína og nú lifir hann á jörðinni ásamt Ormazd samkvæmt ráðsályktum hins eilífa.

Óttaleg var eyðilegging sú er hann gjörði á jörðinni. En því meira sem hann reyndi illt að gjöra, því meira framkvæmdi hann af ráðsályktunum hins eilífa, þótt honum væri það ekki sjálfrátt og flýtti þannig fyrir þroskun hins góða. Þannig fór hann í nautið, frumdýrið, og þjakaði það svo að það dó. En þegar nautið dó, þá spratt hinn fyrsti maður, Kaiomarts, fram af hægra herðarblaði nautsins, en af vinstra herðarblaðinu spratt Goshurun, sála nauts-

ins, og varð nú verndarengill dýraflokksins. Ennfremur spratt alt dýraríkið fram af líkama nautsins. Ahriman fyllтist nú æði miklu, og skapaði hin óhreinu dýr; skapaði hann eitt óhreint dýr á móti hverju er hreint var. Þannig skápaði Ormazd hundinn, en Ahriman úlfinn, Ormazd öll hin gagnlegu dýr, en Ahriman öll hin grimmu og skaðlegu; sama var og að því er plönturnar snerti.

Þó hafði Ahriman ekkert til að setja á móti Kaiomarts, hinum upprunalega manni, og réði því af að drepa hann. Kaiomarts var bæði karl og kona, en, er hann dó, komu af honum hinir fyrstu menn. Tré spratt upp af líkamв hans og spruttu á því tíu pör karla og kvenna; hið fyrsta parið var Meshia og Meshiane. Voru þau upphaflega saklaus, sköpuð til himnaríkissælu og tilbáðu Ormazd, sem skapaга sinn. En Ahriman freistaði þeirra. Þau drukku mjólk úr geit einni og spiltu svo sjálfum sér. Ahriman færði þeim þá ávöxt, er þau átu og misstu við það hundrað hluti sælu sinnar, en einn hluti sælunnar var þó eftir. Konan varð fyrri til að færa Daveunum (djöflunum) fórnir; að fimtíu árum liðnum áttu þau tvö börn, Siamak og Veschak og dóu hundrað ára gömul. Fyrir syndir þeirra mega þau sitja í helvíti allt til upprisudags.

Þó að mannkynið væri nú dauðlegt orðið og ofurselt allskonar eymd og hörmungum fyrir synd hinna fyrstu foreldra, þá var það þó ekki svo illa farið sem margur kann að hugsa sér. Maðurinn er mitt á milli tveggja heima, ljóssins og myrkursins, með fullu frelsi til þess að velja hvort hann kýs heldur illt eða gott. Ormazd skapaði manninn og því er maðurinn skyldur að heiðra hann og dýrka hann fylgja honum í stríðinu við hin illu maktarvöld. En Ahriman og Daevar (djöflar) hans, umkringja manninn nótt og dag og reyna til að leiða hann afvega svo þeir auki með því völd myrkranna. Maðurinn hefði alls eigi verið fær um að standa á móti freistingum þessum, er hinir fyrstu menn höfðu fallið fyrir, ef ekki Ormazd hefði séð aumur á honum og gefið honum opinberun vilja síns í lögmáli Zóroasters. Ef maðurinn hlýðir þessum boðum, þá er hann undir vernd og varðveizlu Ormazd og djöflar hafa engin völd yfir honum. Aðalinntak þessa lögmáls er þetta: Hugsa þú hreinlega, tala þú hreinlega og breyt þú hreinlega. Alt það, sem frá Ormazd kemur, er hreint, en alt það sem frá Ahriman kemur er óhreint; eins þarf að leggja stund á hreinleika líkamans eins og hreinleika sálarinnar. Fyrir því eru margar og nákvæmar reglur og fyrirskipanir um að halda líkamanum hreinum.

Sálir mannanna, sem Ormazd hafði upphaflega skapað, voru geymdar á himni í ljósríki Ormazd, en þær þurftu að koma af himni ofan til þess, að samtengjast mannlegum líkama og ganga í gegnum

reynsluskólann í lífi þessu, var það kallað að þær þyrftu að kynna sér "leiðirnar tvær" og velja um hverja þær vildu fara. Þær sem kjósa hið góða í lífinu, fara til góðra engla við dauðann og leiðbeinir hundurinn Sura þeim til brúarinnar Chinevat og gætir þeirra. Aftur draga djöflarnir hina vondu þangað. Þar heldur Ormazd sjálfur dóm yfir sálunum og ákveður forlög þeirra. Hinir góðu fara eftir brúnni til bústaða sælunnar og taka Amshaspands (hinir sjö ljósenglar) þar fagnandi við þeim; en hinir vondu hrapa niður í afgrynnið Duzakh og kveljast þar af djöflunum. Ormazd ákveður hve lengi hver skuli í kvölunum vera og leysast sumir bráðlega þaðan fyrir bænir og meðalgöngu vina sinna, en margir hljóta að bíða þar upprisu hinna dauðu.

Ahriman sjálfur stuðlar mikið til þessa, hefir hann haft mikið vald yfir mönnum um þessi seinustu 3000 ár. Hann skapaði sjö halastjörnur á móti hinum sjö jarðstjörnum og æddu þær um himingeiminn; stóð af þeim háski mikill og fylltust allir ótta og skelfingu. En Ormazd setti jarðstjörnur sínar yfir þær til þess, að halda þeim í skefjum, og hefta meingjörðir þeirra. Þetta lukkast þeim alt til hins síðasta tímabils. Þá sleppur ein halastjarnan frá verði sínum, tunglinu, eftir ráðsályktun hins eilífa, steypir sér niður á jörðina og verður þá alt í báli einu. En áður en þetta skeður, mun Ormazd hafa sent spámanninn Sosioch, til að snúa mönnum til réttrar trúar, og þvínæst kemur upprisa hinna dauðu.

Ormazd mun þá að nýju klæða bein hinna dánu með holdi, og munu vinir og frændur þá þekkja hver annan. Þar á eftir kemur skilnaður hinna réttlátu og syndaranna.

Þegar Ahriman lætur halastjörnuna falla á jörðina til að eyðileggja sem mest hann getur, þá vinnur hann í þjónustu hinnar eilífu veru, þótt það sé móti vilja hans og ætlan. Því brenna sú er halastjarnan veldur, breytir jörðinni allri í logandi flóð, sem bráðið járn væri, og rennur elfa þessi með ofsagangi niður í ríki Ahrimans. Hinnir réttlátu verða að vaða í gegnum hana til bústaða sælunnar, og finnst hún ekki vera heitari en hálfvolg nýmjólk, en syndurum öllum fleytir elfan niður í afgrynnið Duzahk. Þar skulu þeir bernna í þrjá daga og þrjár nætur; eru þeir þá hreinir orðnir, ákalla Ormazd og fá að koma í ríki himnanna.

Síðarmeir á Ahriman og allir þeir, sem með honum eru í afgrynninu, að hreinsast af eldi þessum, alt hið illa á að eyðast og myrkrið að hverfa. Síðan á að koma ný og fegurri jörð, hrein og fullkomin er vara skal að eilífu.

Þetta trúarkerfi er eignað spekingnum Zóroaster sökum þess,

að hann var hinn fyrsti maður, er nokkuð kvað að, sem hélt þessum og líkum kenningum fram, ekki þó í þeim skilningi, að Zóroaster hafi einn manna fundið þessa trú upp. Menn finna ekki upp trúarbrögð, þau vaxa, þau liggja í huga þjóðarinnar og svo safnar einn eða fleiri þessum hugmyndum saman og setur þær í samanhangandi heild, þannig var því varið með ásatrúna vora fornu. Það má margt segja um þessa trú, en fyrst vil jeg geta hugmyndar þeirrar er gengur í gegnum hana alla og svo sýna að hverju norræna trúin gamla hafi verið skyld henni og síðan hvað Gyðingaþjóðin hafi af henni lánað og vér aftur af henni.

Aðalhugmyndin, sem vakað hefir fyrir Zóroaster, er stríðið á milli hins illa og góða. Hann hefir haft ákaflega næma tilfinningu fyrir því hve þessi öfl voru mótsett hvert öðru í heiminum. Hið góða á örðugt uppdráttar, það verður sí og æ að liggja í stríði við hið illa; stundum ber hið góða sigur úr býtum og stundum hið illa. Oft er það að hið illa verður ríkjandi um langan tíma; það brýtur undir sig hið góða svo það getur ekki haft neinn framgang eða þroska, en af því hið góða er verulegt en hið illa ekki, þá verða þessi yfirráð hins illa ekki ævarandi, það hlýtur að verða undir á endanum. Þess vegna lætur Zóroaster guði og góða menn berjast móti djöflum og vondum mönnum, en loks sigrar þó hið góða; hegningin hjá Zóroaster er ekki látin koma fram á hinum vondu í hefndarskyni heldur til þess, að betra þá; eldflóðið hreinsar þá. Þeir sitja ekki í því um óendanlega eilífð, heldur í þrjá daga og koma hreinir úr því tilbiðjandi skapara sinn. Sama er um Ahriman og djöflana, þeir eru látnir hafa lengri vist í víti, en þó losast þeir þaðan, þegar þeir eru orðnir hreinir. Þá er það og einkennilegt, hvernig vopnin eru, sem hermenn ljósguðsins berjast með, það eru hinar hreinu hugsanir, hin hreinu orð og hin góðu verk. Hún er siðferðislega góð og hrein þessi trú. Betran mannsins kennir Zóroaster að eigi að koma innan að frá hinu hreina hjarta; þegar hjartað er hreint þá á það að verka góðar hugsanir, góð og guði þóknanleg verk. Hugmyndin, sem hér liggur til grundvallar í kenningum Zóroasters verður því í rauninni hin sama og kemur fram hjá hinum guðdómlega kennara í Galileu í þessum orðum: sælir eru hreinhjartaðir því þeir munu guð sjá; og þó lifði Zóroaster að líkindum fleiri þúsund árum áður. Zóroaster fann þyngst til hins andlega illa, þess er kom innanað úr hinu spilta hjarta mannsins; sbr.: innan að frá hugskoti mannsins koma allar illar hugrenningar og girndir o. s. frv. En hann skilur ekki hið illa, hann getur ekki fundið það sem eiginlegt heiminum eða náttúrlegt, heldur verður hann að leita að því hjá andaheiminum, hjá djöflunum. Þar lætur hann upptök þess vera. Honum hefir farið þar, sem mörgvm öðrum, að þeir leita langt um skammt, þeir hlaupa langar leiðir yfir firnindi og fjöll, yfir klungur og kletta til þess að leita að því, sem þeir gætu fundið við fætur sér, ef þeir gættu nógu vel að.

Niðurl. næst.

Unitarafélagið í Minnesota hefir sent oss svo látandi bréf:

Rev. Magnús Skaptason,
Winnipeg.

Kæri bróðir.

Unitaraþingið í Minnesota, hefir falið mér sem nýkosnum skrifara þingsins á hendur, að tilkynna yður sem meðlim þingsins (Conference) ályktun þess sem samþykt var með öllum atkvæðum við seinustu setu þingsins í New Ulm þetta ár; og er hún á þessa leið:

Þingið ályktar að senda séra Magnúsi Skaptason í Winnipeg, bróðurlega kveðju sína, og lætur félagið í ljósi ánægju sína yfir hinni óþreytandi trúmennsku hans, að vinna fyrir frjálsum trúbrögðum og felum vér honum að flytja kveðju þessa trúbræðrum hans í hinum ýmsu söfnuðum, er hann þjónar.

Með bróðurlegum huga
Franklin C. Southworth.

---

# ÁSKORUN.

Samkvæmt "Dagsbrún" nr. 4. f. á., eiga allar útistandandi skuldir þess blaðs upp að nýjári 1895, að borgast til mín undirskrifaðs sem fyrveranda útgefanda þess blaðs. — Þegar ég tók að mér útgáfu "Dbr." bar ég svo gott traust til landa minna hér vestra, að ég hafði góða von um að þeir mundu standa í skilum við mig með andvirði blaðsins, en þetta hefir farið á annan veg, því yfir $230 eru enn útistandandi, þrátt fyrir ítrekuð tilmæli mín um borgun, (að undanteknum nokkrum kaupendum sem ávalt finna til skyldu sinnar að standa vel í skilum, og er ég þeim mönnum mjög þakklátur, bæði fyrir fljót skil og annan stuðning, sem þeir hafa látið mér í té). Mönnum hlýtur að vera það augljóst, að efnalitlum manni er það stórkostlegur hnekkir, ef viðskiftamenn hans standa illa í skilum og láta það dragast árum saman að borga honum 50cts, $1, eða $2 upphæð, en hann aftur að hafa skuldbundið sig til að svara út fleiri tugum dollars upp á væntanleg skil kaupenda. Ég skora alvarlega á alla mína heiðruðu viðskiftavini, sem skulda mér fyrir "Dbr." upp að nýjári 1895 (I. og II. árg.), að borga nú tafarlaust skuldir sínar, annaðhvort beinaleið til mín eða til þess útsölumanns, sem ég bendi hverjum til í reikningi sínum, og hafa lokið því fyrir næsta nýjár. Eftir þann tíma verða allar þessar skuldir fengnar í hendur innlendum skuldheimtumönnum til innköllunar.

Gimli 1. Des. 1896.
G. M. Thompson.

# Jólagjafir!

Nú fara menn að hugsa um að kaupa jóla- og nýjárs gjafir handa vinum og vandamönnum. Dagsbrún langar líka til að fá jóla- eða nýjárssendingar frá kaupendum sínum. Oss sárliggur á peningunum fyrir nýárið. Það eru bara $1—2 frá hverjum einum, en alt til samans er þetta heilmikil fúlga, og meira en nægilegt til þess, að gera Dagsbrún skuldlausa við alla menn.

Útsölumenn! Fyrir alla muni látið nú ekkert tækifæri hjá líða að ná inn sem mestu fyrir nýjárið.

---

## Nýtt tímarit:

# "Bókasafn alþýðu".

Svo heitir nýtt tímarit, sem hr. Oddur Björnsson í Kaupmannahöfn er byrjaður að gefa út. Er svo til ætlast að það komi út í flokkum, og verða þrír árgangar í hverjum flokki en hver árgangur verður um 300 blaðsíður í venjulegu 8 blaða broti. Hver árgangur kostar, í kápu 80 cent, innbundinn í vandað og fallegt band $1.20—$1.30.

Að öllu forfallalausu fæ ég 1. bindi safnsins seint í þessum mánuði og hefir það inni að halda öll

## Ljóðmæli Þorsteins Erlingssonar,

með ágætri mynd af höfundinum. Má búast við að kvæði þessa alkunna snildar-skálds seljist mjög ört, er þau koma, og er því vissast fyrir þá, sem vilja eignast þau, að senda pantanir til mín nú þegar; en ekki þarf að borga fyr en við móttöku bókarinnar.

Þar eð sérstaklega hefir verið vandað til útgáfu Ljóðmælanna, verður þetta bindi nokkuð dýrara en hin önnur bindi Bókasafnsins Fyrir áskrifendur að "Bókasafni alþýðu" kosta þau:

Í mjög vönduðu og sterku bandi $1.00.
Í ágætu skrautbandi, gylt í sniðum $1.20

Viðvíkjandi BÓKASAFNI ALÞÝÐU vísa ég mönnum að öðru leyti til nákvæmari auglýsingar í Heimskringlu 10. Des. síðastl.

M. PÉTURSSON.
Aðal-útsölumaðum.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: Magnús J. Skaptason.
686 Alexander Ave.

Féhirðir og afgreiðslumaður: Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.